# Athugaverdt
vid
# Utleggingar,

framsett
af
Haldóri Jakobssyni,
fyrrum Sýslumanni í Stranda-sýslu.






Leirárgørdum vid Leirá, 1803.
Prentad á kostnad Høfundsins
af
Faktóri og Bókþryckiara G. J. Schagfjord.



Ef nockurstadar er þorf á ad ritaum Utleggíngar úr framanditúngumálum, er þad á þessum tímum hér á Islandi, því menn siá daglega, ad hvorr einn, sem þykist skilja 2 túngumál, þykist og vera hentugur útleggjari, hvad þó er þad erfidi, sem þeir álitlegustu og lærdustu menn, jafnvel á Fracklandi og Englandi, ecki nema med skjálfandi penna, hafa sér fyrir hendur tekid. Vor á medal er þad ordid hjá mørgum hvorsdags verk, því ef vér viljum spyrja úngmenni, sem nýlega eru dimitteradir úr skóla, ad: hvort þeir

 treysti

treysti sér til ad útleggja einhvorja bók? mundu þeir hlæja ad þesshóttar spurníngu, og halda hana ónaudsynlegá, hvad þeir þó ecki mundu gjøra, ef þeir hugleiddu þvílíks erfidis vandhæfni, og litu eptir því, ad á medal ótal útleggínga, finnast ad eins fáeinar, sem lærdir menn hafa med ánægju lesid. Nockrir taka til ad útleggja bækur, ádur enn þeir skilja túngumálid til gagns; þeim ættu Yfirvøldin ad fyrirbjóda þad; adrir skilja ad sønnu túngumálid, en athuga ecki, og máské vita ecki þær reglur, sem gódur útleggjari á ad hafa gát á; þeir menn þurfa undirvísunar. Þær yfirsjónir, sem skémma, eru ýmislegar: nockrir binda sig svo fast vid adalritid, ad útleggíngin verdur ecki vel skiljanleg; adrir hugsa sér einúngis ad ná meiníngunni, og taka sjálfum sér, vid útleggínguna, ofmikid leyfi; þar af orsakast, ad

menn

meñ á stundum, í hvílkri útleggíngu, ſá ad leſa þad, ſem ecki er ad fiña í Rithofundſins. Gódur útleggjari á ad þræda medalveginn í þeſſu, og víkja ecki frá upphafs-ritinu, nema í þeim orda-tiltækjum, ſem gagnſtæd verda annars túngumáls eginlegleika; því ſá ordsháttur, ſem er prýdilegur og ſnotur í einu máli, er til óſóma í ødru. Ad þeſſu gæta þó ecki ſumir útleggjarar, og þeſs vegna, med því ad hnoda ſaman eitt málfærid eptir ødru, orſaka, ad þau ágætuſtu og ſnotruſtu rit verda til adhláturs útløgd.

Eg vildi nú af heilum huga óſka, ad vórir gømlu Biblíu útleggjarar hefdu hugleidt þetta, og ecki þvíngad útleggíngar ſínar, ſem þeir á vort túngumál gjort hafa, eptir Auſturlandanna þjóda orda-tiltæki, því menn hafa leſid, ad nockrir

hyrdulausir gudleysíngjar hafa tekid sér orsök af því, til ad hædast ad helgra Ritnínga orda-tiltæki, sem hjá oss nú á þessari old, ecki á ad brúkast, edur í voru máli; þad sýnist ecki heldur ad hlýda til meiníngarinnar, lætur og miøg óvidkunnanlega í Nordurálfunnar innbúa eyrum, og eru hér til mørg dæmi, af hvørjum eg vil eitt framfæra: þeir gømlu Hebresku hafa útmálad hund eins og þad dýr, sem pissar í vegg; sá talsháttur hjá þeim á fornøldum var ecki hneixlanlegur, því hann var almeñt brúkadur, en engum kalla eg rádlegt, ad brúka þesshattar orda-tiltæki hjá oss nú í samqvæmum. Þad, sem má kallast snoturt á vallendsku er adhlátursverdt á fronsku, og þad, sem á þýdska túngu kann ad vera sæmilegt, gétur í útleggíngu ordid illa skiljanlegt á íslendsku, og svo er án efa um øll túngumál; því

ec

er vel athugandi ad útleggíngar sèu rètt-ar, og þarhjá ad það túngumál, sem þær útgéfast í, ecki missi sína eginleg-leika, og verdi svó þar af ótímabær mál-leysa, því kappkosta ber ad ná sem best rithøfundsins meiníngu, og þèssvegna útheimtist til gódra útleggínga: 1.) ad útleggjarinn skilji vel túngumálid. 2.) Ad Originalnum sé trúlega fylgt. 3.) Ad enginn skémmi edur gjøri óþeckjan-legt þad tungu-mál, á hvørt útlegg-íngin gjørd verdur, því reynt er, ad nockrir med sjálfsmídudu frelsi, hafa gjørt sína rithøfunda óþeckjanlega, og adrir med ofmikilli þvíngun skémmt hitt málid, og 4.) ad menn varist þá tvo af-vegu, á hvørja margir útleggjarar, sem og rithøfundar villst hafa, og einna mest er ad óttast fyrir þegar túngumál-id, sem í er skrifad, ecki er ordid svo fullsnídid og lagad sem þarf: liggur an-

... þessara til úreldtra orda-tiltækja, edur jafnvel þvílíkra, sem aldrei hafa brúkud verid, og hverra høfundar eckért ávinna vid, nema ad byrta sérsinni sitt, og sitja ødrum fyrir ljósi í uppfrædíngunni, en hinn til of almúgalegra, hégómlegra, og kannské ecki nema á summum stødum og í vissum landsfjórdúngum nockru sinni heyrdra blendíngs málkækja, hvarvid óskjaldan tíguglegt og snoturt efni vanvyrdist. Af þessu sjest nú, ad þad er ecki hverjum únglíngi hentugt ad verda útleggjari, og ad þeim almennilega misskilst, sem halda þad muni svo audveldt; reynslan sannar, ad ýmsir í útløndum, sem hafa haft gódar gáfur, tíma og áhøld, hafa ecki haldid sig ofgóda til þess.

Sá franski Doctor Ablancourt, sem í lærdómi og skarpleika var einhverr

hvørr hinn mesti madur á sínum tíma, kostgjæfdi og ydkadi allt af, ad útleggja gódar bækur; orsøkina framsetur **Patru**, er samantekid hefir hans æfisøgu, med þessum ordum: „**Ablancourts** skarpleiki og lærdómur var líkur **Montagnes**, og hefdi hann viljad skrifa saman bækur, vantadi hann engin efni þar til, því hann hafdi sterkann minndunar-krapt, mikinn lærdóm og náttúru-gáfur, en þegar honum var sagt þad, sagdist hann hvørki vera Prestur né Procúrator, veroldin væri full af ágætum bókum, og ad þær, sem innihéldi sidareglu og dygdalærdóm, væru ecki annad enn umsmídad efni úr þeim skrifum, sem þeir gømlu menn **Plútarchus**, **Seneca** og fleiri, hefdi samansett; en til ad gjøra sínu fødurlandi velvild og þénustu, væri miklu rádlegra, ad útlegg-

„ja gódar bækur, enn samanskrifa nýjar, sem þó eckért nýtt hefdu inni ad
„halda." Margir adrir álitlegir og lærdir menn, hafa haft sömu meiníngu; þanninn sjá menn, ad sá franski lærdi Doctor, héllt sig ecki ofgódann til ad útleggja annara rit, á sitt módur-mál, og ad hann hefir álitid þad erfidi nytsamlegra, enn ad skrifa saman nýjar bækur, sem eckért nýtt innihéldu; margir hafa og þessvegna sóad miklu af sinni tíd, til þess ad útléggja gódar grískar og látínskar sögu bækur, fyrir hvad þeir hafa ordid mjøg nafnkunnugir í heiminum, á medal lærdra manna. Engvir hafa þó, á þessum sídari øldum, meir ástundad þad enn Franskir; þeirra ydjusemi er þad ad þacka, ad vér høfum margar gódar útléggíngar yfir gamlar bækur, þó sumir af þeim hafi ofmikid gjort af því, svo adfinníngar sé verdt.

Vau-

Vaugelas hét franskur madur, sem var í 30 ár ad útleggja þann látínska Curtium, hvar fyrir einn af hans kunníngjum sagdi eitt sinn brosandi til hans „eg held fyrir víst ad franska túngumálid verdi umbreytt, ádur enn þú „ert búinn med útleggíngu þína yfir „Curtium." Færdi hann þad heim í Skáldmæla-bók hins gamla Martialis, þar svo stendur:

*Eutrapelus* ecki er búinn enn ad raka,
Annad skéggid aptur kémur,
Adur hann hitt í burtu nemur.

Fyrir því þarf ecki rád ad gjora hjá oss Islendíngum, því margur Skóla-Dimissus vill án efa lofa, ad útleggja Curtium á 30 døgum, einkum ef hann ætti til nockurs ad vinna, hætt er vid ad útleggíngin yrdi þar eptir. Þær dønsku útleggíngar, sem menn hafa af

Salu=

Salustio og Curtio sýnast ecki heldur útheimta lengri tíma. Menn géta og sagt: ad hvörsu snoturlega og vel, sem einhvör útlegging er gjörd, missi þó optast nockud, sé hún borin saman vid adal-ritid; Þad er og ómótmælanlegur sannleiki, ad útleggínga- útleggínga-útleggíngar úr einu túngumáli í annad, og svo úr því í hitt og hitt, kunna valla annad enn vera óáreidanlegar, einkum þegar sjálfs Rithøfundsins skrif er eckí til samanburdar, edur ef útleggjarinn skilur þad ecki. Margar gamlar søgur hafa meira efni ad innihalda á fáum blødum eda ørkum, enn sumar bækur, sem nú á døgum eru sumstadar saman-skrifadar í þyckum Foliontum; orsøk til þess er án efa sú: ad þeir gømlu hafa kappkostad ad uppteikna fyrir eptirkomendur sína, hin naudsynlegustu og merkilegustu tilfelli, en nockrir vorra

tíma

ikuna bóka-smidir képpast vid ad skrifa þyck og stór rit, hvar fyrir eg meina, ad sumt af því gamla fremur ómislegu nýrra, sé vel útleggjandi, en bóka-val il útleggínga er ecki hvors eins verk, sem vill, sé hann barn ad aldri eda vitsku.

Eg minnist nú aptur á útleggíngarnar yfir vora íslendsku Biblíu, og ad þær, í tilliti til adal-ritsins, sýnast sumstadar rángar, og annarstadar meiníngarnar mjøg afbakadar. Ecki er þetta í því skini ritad, ad vanþackadar séu þeim gømlu og gódu Hóla-Biskupum þeirra lofsverdu fyritektir í þessu; því margir af vorum landsmønnum hafa sídan góda nytsemd þar af haft; en ad eg segi þad satt, sem ádur er skrifad, verdur af mørgu sannad. Formáli sá, bls. 17—20, sem Biskupinn sálugi Doctor

Doctor H. Finnsson hefir samantekid fyrir framan bók þá, er nefnist Qvøldvøkur, prentada ad Leirárgørdum 1796, Tom. I., og sá vid Sigurljód, prentud 1797, sýna útþryckilega hans meiníngu í þessu efni, med fleiru, sem bædi sá sálugi Biskup og adrir hafa skrifad þar um.

Margt mætti fleira hér um rita, en eg vil nú enda þessi fá ord í þetta sinn, med þeirri innilegri alúdar-bón til minna kjæru Landsmanna, sem taka sér fyrir hendur ad útleggja gódar gamlar eda nýjar bækur, ad þeir vildu láta sér þócknast ad athuga vel ádur umgétnar reglur, og hvørki víkja oflángt frá Rithøfundunum og þeirra meiníngum; né hnoda ofmjøg vort góda og gamla módur-mál; útleggjararnir þurfa og ad velja til sinna útleggínga hinar bestu útgáf-

gáfur bóka. Er til alls þessa stór nauðsyn á þeckíngu og lærdómi, því ecki verdur því med røksemd móti mælt, ad á uppfrædíngu sé, yfir høfud sagt, enn þá allmikill brestur í þessu fáfróda landi.

Bæ vid Hrútafiørd,
þann 1ta Septembr. 1802.

Haldor Jakobsson.



